# Auglysing.

§. 1.

Island er laust og lidugt frá Danmerkur Rikisrádum.

§. 2.

Øll Yfirvøld Køngs, þeir sem eru innfæddir Islendskir, og vilja vera trúir sínu Fødurlandi, samt afleggja Eid uppá þad, ad uppfylla sína Embættis Skyldu, skulu fullvissast um þeirra fullu Laun og Betaling.

§. 3.

Sérhvørr innfæddur íslendskur Embættismadur, sá er hagar sér skickanlega, skal haldast í Heidri.

§. 4.

Allar Pensionir til Eckna, Barna og frá Embættum frígéfinna Embættismanna, skulu útbetalast.

§. 5.

Yfirvøldin í sérhvørju Amti og Bygdarlagi skulu sorga fyrir ad útvelja dugandis og skynsamann Mann, sem ber Skynbragd á Landsins Asigkomulag, og sem skal vera Formadur fyrir sinn egin Bygdarlagi. Øll Løg og Tilskipanir skulu koma frá þessum Bygdarlaga Formønnum. Þessa Menn skal Landid fæda, og allt skal vera uppá eins Máta, og ádur enn Landid var undir **Norvegs** Køngum.

§. 6.

Sérhvør Yfirvaldspersóna, sem má standa í sínu Embætti, skal géfa mér skriflega til kynna, ad hann vilji vera vid sína Sýslun, og skal þetta Bréf vera komid, nær 14 Dagar lída, frá nærliggjandi Sveitum, og 7 Vikur frá fjærstu Plátsum, utan svo sé, ad Vedur og Landsvegir skyldu orsaka løgmæta Hindrun, og skal þá Orsøkina nefna, hvarfyrir á þessu hefir Brestur ordid. Vilji einn edur annar ecki vera vid sitt Embætti, þarf hann eda þeir ecki vænta nockrar Hjálpar af Stjórnarrádinu, og verdur þá annar Embættismadur settur í hans Stad.

§. 7.

Engvir, nema innfæddir Islendskir skulu setjast til Løgsøgudæmis, og vera Forgángsmenn Landsmanna sinna.

§. 8.

**Island** hefir sitt egid Flagg.

§. 9.

**Island** hefir Frid um alla Verøld, og Fridur skal grundvallast á føstum Fæti vid **England**, sem vill láta **Island** njóta sinnar Varatektar.

§. 10.

**Island** skal setjast í ordulegt Varnarstand.

§. 11.

Øll Hospitøl og Skólavæsenid skulu reglulegar innréttast.

§. 12.

Allar Skuldir, sem svarast egu, annadhvørt til þeirrar fyrrverandi dønsku Rikisstjórnar, ellegar til þeirra Faktóra, sem hafa Vidskipti vid dønsk Høndlunarhús, og sem møgulega heimsendast kynnu til Danmerkur, megu ecki borgast; en sérhvørr er frí frá svoddan Gjaldi, svovel til Køngs, sem þesshátttar Kaupmanns; en skyldi einhvørr þarámóti borga nockud af Skuld sinni til þvílíkra, þá skal hann neydast til ad bæta alla Skuldina til núverandi Stjórnarráds.

§. 13.

Kornvørur megu engannveginn seljast med svo háu Verdi, sem nú gengur, en Verd þeirra skal falla.

§. 14.

Allir Islendskir frígéfast fyrir Helftinni af øllum þeirra Skøttum til 1ta Júlii 1810.

§. 15.

Islendskum leyfist hindrunarlaust ad reisa fram og aptur, og kaupslaga í Landinu eptir eginn Þótta, med hvørjum sem sýnist, þó ecki þeim, sem verdsla fyrir Danska.

§. 16.

Allir vernlegir Embættismenn og Persónur, skulu sækja Betaling til mín, og afgjøra adrar Sakir vid mig, þartil Islendskir senda þeirra eginn Forstødumenn.

§. 17.

Enginn Islendskur má dæmast eda straffast, þó ad Forstødumenn séu samankomnir, án þess 12 Menn hafi ádur sagt, ad Straffid væri ad Maklegleikum.

§. 18.

Øll Yfirvøld í Landinu, hvør helst sem eru, skulu bera Umsorgun fyrir, ad hindra allt Samqvæmi med dønskum Skipum, hvadan sem þau svo koma, svo ega þau og ad géfa inn Lista til mín, hvad mikla Kornvøru medþurfi til sérhvørs Distrikts, svo hún verdi flutt fyrir Vetrartímann. Sú Rádstafan skal ské, ad Landid sé byrgt fyrir 1 Ar fyrifram af Kornvørum.

§. 19.

Ad sønnu eru Islendskum géfin framanskrifud Fríheit, þó ad vidløgdu Straffi, ef þeir gjøra á Hluta nockurs dansks Manns, sem hefir haft Embætti Køngs á Hendi, líka svo þess, sem hefir haft Vidskipti vid dønsk Verdslunarhús, ef þeir ecki annars dreifa sér vid Almennings Sakir.

§. 20.

Forstødu-mønnunum skiptist þannig: í Sudur-Amtinu 3, í Austur-Amtinu 1, Nordur-Amtinu 2, og Vestur-Amtinu 2.

**Reykjaviik, þann 26ta Junii 1809.**

Jörgen Jörgensen.

